J. Guttormsson

# BÓNDADÓTTIR

GUTTORMUR J. GUTTORMSSON

# Bóndadóttir



HECLA PRESS, LIMITED
WINNIPEG
1920

**Gefið út af**

**Hjálmari Gíslassyni**

**og**

**Sig. Júl. Jóhannessyni**



# Röð kvæðanna

---

# Spá

Eftir þúsund ár er mælt að almenningur
Verði orðinn vitfirringur.

Verða kannské—vísindin ei vita um alla—
Einstöku með öllum mjalla.

Einangraðir öðlast þeir þá eitthvert bæli—
Verður stofnað vitrahæli.

# Leiðrétting

Við vitum það, að guð er góður þeim,
Sem gera hans að vilja, lífs og dauðir;
En þeir sem breyta illa hér í heim
Við hjálp hans fara á mis og verða snauðir!
Því skilst mér það, að ritast hafi rangt
Í ritninguna þetta svona strangt:
Hvern drottinn elskar agar hann og typtir,
Það á að vera lagar hann og giftir.

# Að leikslokum í Winnipeg

Halla er no good Indíáninn,
Out in a snowstorm hlaupti bjáninn.
En say, ég hló mig sick að hinu
Að sjá hana throwa babyinu.

---

# Hvítir Eskimóar

Eftir Vilhjálms utanför til Eskimóa
Hvítu fólki fór að snjóa.

# Pílagrímar

---

Það skeði áður fyr einn drottins dag
Að ''Dúkaborar''—helgra samfélag—
Í flaustri héldu fótgangandi braut
Og fé sitt yfirgáfu, lönd og naut.

Þeir hófu naktir þessa frægðar för
Og fluttu ekki með sér brauð né spjör.
Þeir komu, að finna Krist, til Winnipeg,
Svo kynlega bar til, að þar var eg.

Eg dvaldi nokkuð nálægt þeirra stig.
Þeir námu staðar, er þeir sáu mig,
Og hvestu lengi á mig augnaráð,
Rétt eins og væri takmarkinu náð.

# Bindindi

Þú leyndir þinni skoðun á landsmálum og trú
Og lézt ei getið sannfæringar þinnar.
Í bindindi var enginn eins þolgóður og þú
Með þagnartappa í flösku hreinskilninnar.

# Eftirmæli

Þú lagðir ekki stund á neina' iðn, það varð til eins,
Að aldrei var minst á þig sem klaufa,
Af þreytu þú kendir ei þjáningar né meins,
En þú varst jafnan duglegur að gaufa.

# Mansöngur

Þú yndislegust allra fugla,
Á eikartoppi situr þú,
Og ert að glymja, glaða ugla,
Þitt gamla ú-hú-hú-hú-hú.
Mín augu töfruð á þig mæna
Hér úti' í lund um næturskeið,
Þú lætur á mig augað græna
Þitt ástarblíða skína' um leið.

# Til vestur-íslenzkrar kvæðagyðju

Af því eg kann ekki' á skáldskapnum skil,
Eg skammast mín að segja' að þú sért velvirk
En heyrðu mig góða, hvar helduröu til,
Hvort ert þú í Brandon eða Selkirk?

# Við dómara

Nei, það er engin hæfa' að eg eigi þessi börn!
Má ætla' þú mér lofir að koma fyrir mig vörn,—
Ef kona, sem er vanfær, mig vel til fara sér,
Þá verður hún svo hrifin, að barnið líkist mér.

---

# Við dilk

Sjúg og totta sjóð þinn í,
Sestur á botninn feita,
Veittu drotni vel af því,
"Viljirðu gott barn heita."

# Bjartsýni

---

Augnalokin o'n á við
Útsjón þinni beina,
Svo hið myrka mannlífssvið
Máttu aðeins greina.

Æðra gagn af augum tveim
Auðnast þér og gæði,
Ef þú hefir undir þeim
Augnalokin bæði.

Ef þú vilt hið efra sjá
Og hins bjarta njóta,
Líttu heiminn allan á
Aftur á milli fóta.

## Sorglegt slys

Hann upp í sig bara ætlaði' að skoða,
En ekki að stofna sér í voða,
Sem stundum er nær en ætlað er—
Þá brá honum svo að sjá hið ljóta,
Varð sjálfrátt að hopa, en misti fóta
Og datt o'ní kjaftinn á sjálfum sér.

---

## Gáfnamerki

Gáfnamerki gott: að þegja,
Glotta að því, sem aðrir segja,
Hafa spekingssvip á sér;
Aldrei viðtals virða neina,
Virðast hugsa margt, en leyna
Því, sem reyndar ekkert er.

# Í brúðkaupi

Magnusínu Borgfjörð og Tómasar T. Jónassonar

---

Niður þrá ei þaggast má,
Þó sé gnægð af auði.
Maðurinn lifir ekki á
Einu saman brauði.

Það er ekki eðli manns
Aleinn þess að njóta,
Brauðið eiga hendur hans
Heilt í tvent að brjóta.

Þeir, sem finna afl í arm
Ala löngun dulda,
Veikari máttar við sinn barm
Verja hungri og kulda.

Fjórum eigin augum sjá
Allir, sem hann finna,
Ganga fjórum fótum á,
Fjórum höndum vinna.

Þeir fá breiða braut í sveit
Barna guðs og fleira,
Fræði hans og fyrirheit
Fjórum eyrum heyra.

Láti gott, en fátt, þeim falt
Faktorinn—þessi heimur—
Þá er mildi að mega alt
Margfalda með tveimur.

Guð má fyrir öllum oss
Aleinn vera þríeinn,
Hitt er betra blessað hnoss,
Bara að vera tvíeinn.

---

# Í brúðkaupi

Ingunnar Finnsson og Ásgeirs Féldsted.

---

Í hjónastétt er öllum unt að spara
Sér olíuna og kolin, grunar mig,
Og aurar síður út úr vösum fjara,
Ef auðnast manni það, að gifta sig.
Í samfélagi mærin miklar drenginn,
Því meir sem hún er ástúðleg og kær;
Og það er víst að ein er betri, en engin,
Þótt eiga margur feginn vildi tvær.

Þá götu vilja allir fegnir feta,
Að fá þá beztu, sem þeir hafa kynst.
Og við sem kunnum kvenhylli að meta,
Þó kvongaðir við séum, gerir minst,
Við finnum hugi hátt á vængjum lyftast
Við hjónavígslur, yfir lönd og bú,
Og sjálfur eg í anda er að giftast,
Í annað, þriðja og fjórða skifti nú.

Til konu sinnar hverjum manni hlýnar
Að heyra þetta gamla brúðkaupslag,
Og karlar ættu kerlingarnar sínar
Að kyssa betur eftir þennan dag,
Og unga fólkið, átján, nítján, vetra—
Það ætti' að fara' að líta í kringum sig,
Því fyr mun ekki eða síðar betra.
En annars hef eg nóg með sjálfan mig.

Í æsku var eg einatt sári sleginn,
Ef einhver stúlka giftist sínum pilt,
Og það var alveg eins og væri dregin
Úr efri gómi tönn, svo varð mér bylt,
Og Bergur hefði tengur sínar togað
Af tíu hesta afli og spyrnt í stein,
Sú tilfinning í taugum mínum logað
Ei tíðar hefir—bætt er þetta mein.

---

# Í brúðkaupi

Valgerðar Briem og Ólafs Coghill.

---

Þeir fá ekki allir eilíft líf, sem vilja!
Né ástargæði heilags samfélags,
En guði sé lof, að giftast hjón og skilja
Til góðs á himni og jörð til efsta dags.
Og hjónaskilnað jöfn er hjónavígsla,
Því hún er til að bæta lífsins kjör,
Og honum ætti hún um fátt að brígsla,
Þó hann sé kannské að verða nokkuð ör.

Og mannleg ást að sönnu sundurskilur
Og samantengir—jafnvel giftan mann
Og konu annars manns—sá mikli ylur,
Já, margt, sem ekki er "löglegt" gerir hann
Ef ástin fast á brúðarbekknum sefur,
Sem barn á fjalir lagt í hinsta sinn,
Þá er það ekki guð sem saman gefur;
Þú gerir verkið án hans, prestur minn.

En það, sem herrann samtengdi' ekki sjálfur,
Má sundur skilja að lögum guðs og manns;
Og hver, sem ekki elskar neinn, er kálfur,
Og enginn skyldi vera konan hans.
Þið fyllið hópinn giftra, sæluglaðra,
Sem getið elskað, það er von og bón.
En þó að karlmenn elski hvorir aðra,
Eg efast, um þeir geti verið hjón,

Og enginn góðu fyrirtæki fresti,
Né fari snemma dags í sína kör.
Þið haldið út, með nýja skó og nesti
Í nótt, þið ungu menn, í bónorðs för.
Til afturkomu ykkar mjög eg hlakka
Og óska að braut til sigurs verði greið.
Þið farið með fram bæjum upp að Bakka,
Og biðjið allra kvenna' á þeirri leið.

---

# Í brúðkaupi

Valdheiðar Bríem og Albert E. Ford.

---

Að við og Bretar erum eitt og sama
Er auðsætt þennan mikla brúðkaupsdag,
og saman eigum frelsi, líf og frama,
Og fúsir bætum mjög hvors annars hag.
Við gefum þeim, af góðvild, okkar dætur
Og gleðin kemst um leið á hæsta stig.
—Eg þekti fleiri' en hundrað heimasætur,
Sem heldur vildu eiga þá en mig.

Þú unga brúður, ávarp mitt í ljóði
Er einkum til þín stílað. Heyrðu mig!
Eg hlýt að játa: hann, sem er þinn góði,
Er heppinn sveinn að mega eignast þig.
Þú verður geisli í hans húsi inni
Og úti glaða ljós á vegum hans.
—Eg kannast við það klökkur mörgu sinni,
Að konan—hún er eina lífið manns.

En hafi hann þig ei að eftirlæti
Og ekki reynist þér sem bezt hann má,
Skal eiga mig, hin enska þjóð, á fæti
Þó eg sé gamall nokkuð til að sjá.
Að svara innan tuttugu' og fjögra tíma
—Ef til þess kemur — Bretar passi sig,
Ef ekki vilja eiga' á hættu' að glíma
Við ofurefli: Jóhann Bríem og mig.

Sú trú er bygð á bjargi — vilja mínum,
Að breytni mannsins þannig verði,' að hann
Þér sleppi aldrei út úr faðmi sínum,
Sem ekki er reyndar vandi þeim, sem kann.
Svo líf þitt megi óhult vera' um aldir,
Er óskin mín og bænin fyrir þér,
Að ástin þessa vinar, sem þú valdir,
Sé vörður um þig líkt og brezkur her.

---





# Ísland

Þú drotning yztu eyja heims,
Þar ein, sem hverir vella
Og jötnar orga öldugeims
Og álfabjöllur hvella.
Og þú ert hamrastakki steind,
— Í stríði féllir ella —
Með veldissprota spök og reynd,
Í spangabrynju svella.

Svo langt, sem augað eygir, skín
Þíns íss og loga bjarmi,
En það er Breiðablik í sýn
Og birta þér af hvarmi.
Það bjarmar upp þín eigin sál,
Og andvarp þér af barmi,
Og barna þinna móðurmál,
Sem mælt er þér á armi.

Þín hafblik út og ofan fjörð
Að yztu höfum glampa,
Með gullkamb þinna geisla, jörð,
Þú greiðir skýjakampa;
Og glóðar þinnar glaðan hag
Má greina logum hampa
Svo hátt, að þú átt dýrðar dag,
Þó deyi' á sólarlampa.

---

# Nýja Ísland

Bygðin ertu mesta, hin bezta og stærsta,
Bygðin ertu helzta, hin elzta og kærsta,
Fegurst áttu kvæði og fræði og hljóma,
Fuglasöngvabólið og skjólið þíns blóma.

Skógarljóðin hljóma og óma um engi,
Undir leika vogar sem bogar við strengi,
Raddir náttúrunnar oss kunnar og kærar
Kveða ekki víðar eins þýðar og skærar.

Tungu vorrar griðland, þú friðland hins forna
Fjársjóðs vors í bögu og sögu þess horfna,
Móðir þeirra svanna og manna, sem ganga
Mentaveginn hraðast og glaðast hinn stranga.

Talið er, þig saki, af akri að áttu
Öðrum bygðum smærra, en hærra samt máttu
Stefna, hvar sem fer þú, langt ber þú af bygðum,
Beztu móður líkust og ríkust af trygðum.

Rauna þinna þætti hér ætti að inna,
Eldtendrandi þræði í kvæði hér finna.
—Birtir yfir lundi og sundi, ef sortinn
Sólarbogaskotum og sprotum er snortinn.

Rækt við þig það glæddi og fræddi um framför
Feðra vorra, bræðra og mæðra á samför
Fram til betri daga, því saga það sannar
Sjálf, að ógreið leiðin og neyðin oss mannar.

Hug minn tengir trygðin þér, bygðin mín bjarta,
Bezt hefirðu lýst mér og þrýst þér að hjarta.
Sá, sem víkur frá þér, en hjá þér er hálfur,
Heim til sín ei ratar og glatar sér sjálfur.

---

# Sandy Bar

Það var seint á sumarkveldi,
Sundrað loft af gný og eldi,
Regn í steypistraumum feldi,
Stöðuvatn varð hvert mitt far.
Gekk eg hægt í hlé við jaðar
Hvítrar espitrjáaraðar,
Kom eg loks að lágum tjaldstað
Landnemanna' á Sandy Bar,
Tjaldstað hinna löngu liðnu
Landnámsmanna á Sandy Bar.

Þögnin felur þeirra heiti.
Þeir voru lagðir hér í bleyti.
Flæddi þá um laut og leiti
Lands, við norðan skýjafar.
Andi dauðans yfir straumi
Elfar, sveif í hverjum draumi,
Var þá sem hans vængjaskuggi
Vofði yfir Sandy Bar,
Skuggabik hans fálkafjaðra
Félli yfir Sandy Bar.

Það er hraustum heilsubrestur:
Hugboð um að verði gestur
Kallið handan, höndum frestur
Hlotnist ei, að smíða far,
Þá til ferðar yfir álinn
Ei er reiðubúin sálin,—
Og á nálaroddum voru
Iljar manna' á Sandy Bar,
Voru á nálum óljóss' ótta
Allir menn á Sandy Bar.

Að mér sóttu þeirra þrautir,
Þar um espihól og lautir,
Fann eg enda brendar brautir,
Biðið hafði dauðinn þar.
Þegar elding loftið lýsti
Leiði margt eg sá, er hýsti
Landnámsmanns og landnámskonu
Lík — í jörð á Sandy Bar,
Menn, sem lífið launað engu
Létu fyrr á Sandy Bar.

Heimanfarar fyrri tíða
Fluttust hingað til að líða,
Sigurlaust að lifa, stríða
Leggja í sölur heilsufar,
Falla, en þrá að því að stefna
Þetta heit að fullu efna:
Meginbraut að marki ryðja
Merkta út frá Sandy Bar,
Braut til sigurs rakleitt, rétta
Ryðja út frá Sandy Bar.

Eg varð eins og álft í sárum,
Og mér þótti verða' að tárum
Regn af algeims augnahárum—
Ofan þaðan grátið var,
Reiðarslögin lundinn lustu,
Lauftrén öll hin hæstu brustu,
Sem þar væru vonir dauðra
Veg að ryðja' á Sandy Bar,
Ryðja leiðir lífi og heiðri
Landnemanna á Sandy Bar.

Vonir dána mikilmagnans
Mega færa áfram vagn hans,
Verða' að liði, vera gagn hans,
Vísa mörgum í hans far.
Rætast þær í heilum huga
Hvers eins manns, er vildi duga,
Og nú kendur er við landnám
Alt í kring um Sandy Bar,
Hefir lagt sér leið að marki
Landnemanna á Sandy Bar.

Hafin verk og hálfnuð talin
Helgast þeim, sem féllu' í valinn.
—Grasnál upp með oddinn kalinn
Óx, ef henni leyft það var,
En þess merki í broddi bar hún
Bitru frosti stýfð að var hún.
Mér fanst græna grasið kalið
Gróa kring um Sandy Bar,
Grasið kalið ilma, anga
Alt í kring um Sandy Bar.





Eg fann yl í öllum taugum
Og mér birti fyrir augum;
Vafurloga lagði af haugum
Landnámsmanna nærri þar.
Gullið var, sem grófst þar með þeim,
Gildir vöðvar — afl var léð þeim —.
Þeirra alt, sem aldrei getur
Orku neytt á Sandy Bar,
Það, sem ekki áfram heldur,
Er í gröf á Sandy Bar.

Stytti upp, og himinn heiður
Hvelfdist stirndur, meginbreiður
Eins og vegur valinn, greiður,
Var í lofti sunnanfar.
Rofinn eldibrandi bakki
Beint í norður var á flakki.
Stjörnubjartur, heiður himinn
Hvelfdist yfir Sandy Bar,
Himinn, landnám landnemanna,
Ljómaði yfir Sandy Bar.

# Formannsvísur

(Minni Capt. Sigtryggs Jónassonar, flutt á fjörutíu-ára afmælis hâtíð landnámsins í Nýja Íslandi

---

Fjarað hafa fjörutíu árin
Fyrstu, af bezta landi vestra—
Sjór, er var áður sigldur fari,
Siginn út og í djúpið hniginn.
Formaður snjall og frægri öllum
Féri heilu kominn úr veri,
Réri þar uns þornaði sjórinn,
Þannig strandaði hann á landi.

Engu tapað, en öllu skipað
Upp, hefir kappinn og þakkað happið;
Allra fyrstur út á vastir
Utar flestum sótti hlutinn.
Kjörviður er í knerri dýrum
Kyljum jafnt sem þoldi bylji;
Verður sá með súðir ófúnar
Settur í naust á fimbulhausti.





Færri hásetar hafa kurrað
Hér um borð, þó hann kæmi á norðan,
Heldur en þar sem stóð við stýri
Stjóri annars skips og manna.
Bróðurorði og anda, firðar
Allir jafnir frá skut að stafni
Héldu stefnu, stríddu við öldur,
Storminn þoldu, er öðrum hvolfdi.

Allir fá jafnt af afla hollum
Ungir, fornir og menn óbornir.
Þeim að gildi þúsundfaldast
Þessi arfur og laun fyrir starfið.
Hlægir mig, að hérnamegin
Hafsins ála þjóðarsálin
Finnur eins, þegar aldir renna,
Arðinn góða af þessum róðri·

---

# Konungsdrápa

Við heimför Stephans G. Stephanssonar, 1917.

---

Ljóð fram eg ber
Fyrir lofðungs her,
Yfir megin mar
Það mitt sé far.
Þess varð eg var,
Á vegum hvar
Liggja lét sín spor
Lofðungur vor.

Alþjóð hyllir
Aldinn skáldstillir,
Kærkominn öllum
Frá Klettafjöllum.
Hljóma frá gröfum
Skal hástöfum,
Hans veri lof,
Helþagnarrof.

Heldur helgan vörð
Um helga jörð
—Leiði látinna
Landa sinna,
Hann með herskara
Hugmarmara,
Sem eyðist eigi
Að efsta degi.

Stuðlar hann við strit
Stórþjóðarvit,
—Engan meira eg met
Né metið get.
Ljóðmildings mundir
Metta þúsundir,
Snortin af hans anda
Er þjóð hans landa.

Fer fljúgandi
Frjáls hans andi
Land úr landi
Á ljóðagandi.
Flugið er yndi
Hans arnarlyndi
Hart móti vindi
Af hæsta tindi.

Tendrar hann á kveik
Í töfra söngleik
Norðurhafs-blik
Og norðljós kvik;
Eldgeislann af
Ber yfir haf—
Enn er hér ljóðlíf
Og íslenzkt þjóðlíf.

Meðan fönn falda
Fjöll og velli halda,
Skal hljóðalda
Honum þökk gjalda.

Kemur oss að kveðja
Og kvæðum gleðja
Söngvarinn sönglaði
Og svifhraði.
Svífur hann brátt
Úr sólarlagsátt,
Sækir æskudaga
Í átthaga.

Á hrannahvel
Hann fari vel,
Hann friði eg fel
Fyrir austan hel·

Verði haf að hnossi
Hafræna' að kossi
Og honum hossi
Heim á Gullfossi.

Vaknar yndi
Á Ingólfs strindi,
Kemur að landi
Konungborinn andi.
Opnast breið og löng
Bergkastala göng,
Verða víðloft þröng
Um vættasöng.

Hann lifi lengi
við ljóðastrengi
Afturkominn heim
Um öldugeim,
Heilum stigi fæti
Upp í hásæti.
Hans konungshöll
Er við Klettafjöll.

Verði hljóðbært
Hreint lof og tært—
Kláragullskært

**Og kristalglært.**
**Hróður hefi eg stært;**
**Mér hjartakært**
**Efni í fá orð fært,**
**Sé af flestum lært.**

---

# Canada

(Lag eftir Jón Friðfinnsson).

---

Sem gjafvaxta mær, engum manni kær
hún mændi fram á leið,
Með villimannsskart og metfé margt
hún mannsins hvíta beið,
Með augunum blá um síðir sá
að siglandi kom hans skip,
Og það var sem glans upp af höfði hans
og hátignarblær á hans svip.

Og hæversk og stilt hún var, en vilt,
í vináttu föst og heil.
Að var hennar ást svo einlæg sást,
en aldrei hálf né veil,
Hún faðmaði hann, sinn hvíta mann,
fann hjörtun saman slá;
Hún opnaði barm og hug og hvarm
og heiminn allan sá.

Hann batt henni krans úr kornstanga fans,
en kórónu' úr lárvið sér,

Því kongsson var hann, sem þar kongsdóttur fann
— þar kóngsríki síðan er.
Þau framleiða auð og blóm og brauð
og brúa dauðans hyl,
Og þeirra höll er um víðan völl,
með vorhimins ljós og yl.

Þau ala upp börn sín áframgjörn
með einkunn tígins manns,
En þeirra trygð er á bjargi bygð
við bræður og móður hans;
Sé vopni beitt þau öll eru' eitt,
þau erfðu hetjumóð
Úr föðurætt, sem aldrei rætt
skal upp, þó fjari blóð.

Og kær er hún oss sem kærast hnoss
hún Canada, móðir vor,
Og lífsins dyr verða luktar fyr
en liggi á burt vor spor.
Í sókn og vörn það sýnum við börn,
að séum af stofni grein!
Þó greini oss mál, oss sameinar sál,
sem söm er jafnan og ein.

---

# Minni okkar.

Á hverjum einum Íslendingadegi
Er okkur sungið lof. Af hverjum þá?
Af okkur sjálfum. Sæmir það oss eigi?
Jú, sei, sei, jú, því aðrir ganga frá
og vilja ekki, af heimsku eða hroka,
Sjá höfuðkosti vora' og yfirburð.
Við sýnum o'n í okkur þó sem poka
Og engu leynum við á bak við hurð.

Við höfum, lof sé guði, alt af öllu
Og Ísland getum keypt og fleiri lönd,
Og handa kongi Breta betri höllu
Og borgað fyrir þetta út í hönd
Og hitað Ísland upp með gufupípum
Og aldin látið vaxa' um fjöll og dal.
Við erum, lítt' á, ekki í neinum klípum
Með afl til þeirra hluta' er gera skal.

Hve fáa við nú sjáum samanskropna
Af sult, og fátækt eeða þröngum bás.
Við höfum Árna Eggertsson og Vopna
Með eina miljón hvorn, og Nikulás,
Svo nú þarf enginn hér að kenna' á hörðu,
En hetjur eru sumir vegna þess
Og þora' á hestsbak heima á fósturjörðu,
Ef hjálp er nærri landlæknis og prests.

Og þótt við segjum sjálfir frá, við berum
Í sjón og raun af fólki þessa lands,
Sem skallamenn og ístrumenn við erum
Með öðru lagi fegra' en guðs og manns,
Við þurfum ekki spor að fara í felur
Með fugla tvo, sem kosnir voru' á þing
Og Sigurð Vilhjálmsson sem Þorsteinn telur
Hinn sannmerkasta Vestur-Íslending.

Við eigum mynd af Jóni Sigurðsyni
Og seljum hana fyrir ekki par.
Hún sýnir það: „Við erum af hans kyni
Og erum það, sem karlinn sjálfur var.
Þó út og niður fari alt, ei fer hún
Úr fylgsni sínu, dauðum lögð við hlið —
Í kjallara hjá Arinbirni er hún,
Því annars gæti' hún kannske raknað við.

Um okkar "veg og sæmd" er það til sagna
Að sumir hafa vögnum rent á mig,
Því ýmsir landar eiga djöflavagna,
Sem ætla að drepa þá, sem passa sig.—
Ei dugir lengur dróg né uxi hraður
Að draga, heldur "Gasolíuvél",
Og gufusleði. "Gasolíumaður"
Nú grefur þá, sem eta sig í hel.

Við eigum Fúsa eina sæmd að þakka,
Og eins þótt hér hann flytji skran og þrekk,
Að hann með pípuhatt, í síðum frakka
Um helztu stræti Reykjavíkur gekk.
Menn gægðust út um glugga, því á stræti
Þar gekk hann Fúsi Pálsson, einmitt hann.
En þá reis Hannes Hafstein upp úr sæti
Og hélt þar kæmi nýi ráðherrann.

Við erum drengir flestir félagslyndir,
Í félögum við stöndum ár og síð
Og tökum á oss annara manna syndir,
Og erum þolinmóðir langa hríð.
Við töpum eignum oft með sárum trega,
Er okkar gróðafélög kveðja heim,
En dáumst að, hve yfirnáttúrlega
Hann Albert Jónsson græðir vel á þeim.

Það sýnir íslenzkt eðli mörgu fremur,
Að okkar bækur seljast vel og fljótt.
Og hverja bók við eignumst, út sem kemur
Og Einar þarf að binda dag og nótt.
Við eigum söfn í kimum og í krókum,
Hver kongur, sem það frétti, ofan tók,
En ekki er skorið upp úr þessum bókum,
Því enginn vildi skemma góða bók.

Við Íslendingar erum flestir lærðir
Og einatt tökum verðlaun fyrir nám,
Og upp um bekki allra skóla færðir,
Um enga vinnu beiðum við á hnjám.
Að séum við ei söngmenn er ein lygin,
Við syngjum eins og værum við með horn,
Oss þykir nokkuð stuttur tónastiginn,
Svo stundum bætist við hann ö og þ.

Oss leitt er það, að enskir skuli efa,
Að öllum fremri stöndum við í list,
En vægjum þeim og biðjum guð að gefa
Þeim gáfur, svo þeir telji okkur fyrst.
Þeir ættu að læra að lesa okkar kvæði
Í Lögbergi' eða Kringlu. Mundi þá
Þeim Tennyson og Byron verða í bræði
Á bálið kastað upp. Við skyldum sjá.

Það virðist skýr og fagur fyrirboði,
Að framtíð eigi háttur vor og kvak,
Að Nikulás á skó úr sköturoði
Og skinnpung mikinn fyrir neftóbak;
Hann hafði með sér skyrhákall í skjóðu
Úr skemmu séra Þórhalls, yfir haf,
Og daglega Iðkun Guðrækninnar góðu,
Einn Grallara, tvær Biblíur og staf.

---

# Til fiskimanna

21. Marz, 1917.

---

Meðan okkar milliliðir baka
Makrátt sig við eld í þessum heim,
Sveittir, en þó kaldir úti' á klaka
Krækið þið í fiskinn handa þeim.
Ykkur kunna háir hátt að meta.—
Hvað á málum, nema bóndans ket,
Hefðu kaupmenn heimsins til að éta,
Herra trúr! ef enginn legði net?

Þeim, sem liði safna, sagt við getum
Satt, að ekki flýi þið í skjól,
Heldur til að bjarga þeim og Bretum
Berjist þið við vetrar hörkutól.—
Hvað þið eruð fjarska fráir stundum,
Fráir eins og synir gamla Njáls,—
Sumir ykkar hafa á eftir hundum
Hlaupið alla leið til Sankti Páls.*

*St. Paul, Minn.

Skáldin ykkar kæru öll sín kvæði
Kveða' um ykkar fiskiveiðar nú.
Vegna þess þau höfðu fisk að fæði
Fengu þau svo mikil heila bú.
Allir verða miklir menn af fiski,
Mestir þeir, sem búa' í Riverton.
Miljónerinn Hill og alt hans hyski
Hefir fisk frá Balda Anderson.

Lifið fiskimenn þið máttarviðir
Mangaranna', er alt af skifta rétt.
Lifi hinir mörgu milliliðir,
Miklist sú hin nauðsynlega stétt!
Duft þið væruð hennar án og aska,
Ættuð hvorki lífs né sælu von.
Lifi meyar, lifi dans og flaska,
Lifi Capteinn Baldvin Anderson.

---

# Winnipeg Icelander.

Eg fór on í Main street með fimm dala cheque
Og forty-eight riffil mér kaupti
Og ride út á country með farmara fékk,
Svo fresh út í brushin eg hlaupti.
En þá sá eg moose, úti í marshi það lá,
O my—eina sticku eg brjótti!
Þá fór það á gallop, not good anyhow,
Var gone, þegar loksins eg skjótti.

Að repeata aftur eg reyndi' ekki at all,
En ran like a dog heim til Watkins.
En þar var þá Nickie með hot alcohol.
Já, hart er að beata Nick Ottins.
Hann startaði singing, sá söngur var queer
Og soundaði funny, I tell you.
Eg 'tendaði meira hans brandy og beer.—
You bet, Nick er liberal fellow.

Og sick á að tracka hann settist við booze,
Be sure, að hann Nickie sig staupti.
Hann hafði' ekki lukku í mánuð við moose
Af Mathews hann rjúpu því kaupti.
—Í Winnipeg seg'r 'ann að talsverðan trick
Það taki, að fira á rjúpu
Og sportsmann að gagni að gefa' enni lick,
En God—hún sé stuffið í súpu.

Við tókum til Winnipeg trainið—a fly,
Nick treataði always so kindly.
Hann lofði mér rjúpuna' að bera' upp í bæ,
Eg borgaði fyrir það, mind ye.
Svo dressaði Nick hana' í dinnerinn sinn
Og duglega upp 'ana stoppti,
Bauð Dana McMillan í dinnerinn inn,
"Eg drepti 'ana," sagði 'ann, "á lofti."

---

# Alþýðuerindi um titlinga

Tittir litlu, tístið þið,
Taki hver af öðrum við,
Enginn spillir ykkar frið,
Óttast þurfið valla.
Baldvin er í bænum nú að lalla.

Ykkur friði ræna' og ró
Réttlátt finst mér valla.
Engan mann, sem ekki dó,
Er mér gjarnt að skjalla;
Baldvin minn er góður, en með galla.

Létt er bæjarlýðnum á
Landtitlinga halla;
Enn er honum hægt að fá
Hústitlinga snjalla.
Baldvin hefir ekki drepið alla.

Bæjarlýðnum lítt í geð
Landtitlingar falla.
Ánægð hátign hans er með
Hústitlinga snjalla,
Meðan Baldvin ekki drepur alla.

Þið hafið miklu þýðri raust
Þeim sem hærra gjalla
Farið suður heim í haust,
Hinir fara valla.
Baldvin er um bæinn nú að lalla.

Hann, sem ykkar hami skóp,
Hann er með öllum mjalla.
Þúsund eruð þið í hóp,
Það má mikið kalla.
Baldvin getur aldrei drepið alla.

Hátt í skógar hvelfdum sal
Hljóðin látið gjalla.
Án míns vilja enginn skal
Ofan dauður falla.
Ef að Baldvin kemur, skal eg kalla.

---

# Ný þjóðsaga.

(Efnið úr Free Press).

---

Þegar Vopni var í neðsta sal,
Virtist lítið rúm í Columbíu;
—Það er ekki ljótt, að líkjast hval,
Láta sér ei marka bás né stíu—
Þar var eitt, sem þrengsli stöfuðu af,
Það var lífmynd okkar sverðs og skjaldar;
Þetta, sem oss dýrast drottinn gaf,
Dreif hann, svo að fáir vissu af,
Út um bakdyr—vel voru dyrnar valdar.

Síðan úti í sorpi lá hann Jón,
Sómi var það fyrir hann og okkur.
Mildi var að myndin hafði' ei sjón,
Mundi annars risið hafa skrokkur
Upp frá legstað, álnir fullar sex,
Ekki dvalið lengi þar á slóðum,
—Signi' eg mig, eg teikna á mig X,
Ótti mér í huga stórum vex,
Það er sem eg gangi' á Lögbergs glóðum.

Það var líka mildi' að myndin var
Mátulega stirð og köld sem liðin,
Þegar Gyðing aftans síð bar að
Einan til að glepja bakreits friðinn.
Honum alveg háskalaust var því,
Hvar um vígða jörð ei margir sveima,—
Þennan kopar ná að narta í;
Nú, ef dragi fyrir tunglið ský,
Var það bara góðverk hann að geyma

Þetta er kannske draumur,—aðsókn ill,
Enn er myndin vís sem þessi saga,
Hún er eflaust þar sem Vopni vill
Vera láta—honum minst til baga.—
Columbía ruggar eins og örk
Yfir synda flóðsins myrka gini,
Vaggar eins og vindi skekin björk
Við hið mikla hróp á eyðimörk:
Hvar er myndin af Jóni Sigurðsyni?

Þó að okkur gengi' úr greipum sú,
Get eg til að bættur mundi skaðinn,
Ef við létum gullmynd gera nú
Geysimikla af nafna hans í staðinn.

Góði, Tómas, gefðu okkur blett
Gærustóran undir mynd af honum
—Ekki nema' þú álítir það rétt—
Aftan við hinn nýja þinghúsklett.
Lögberg, hafðu gát á Gyðingonum.

---

# Rockefeller.

Á himnaríkis hallardyr
Var heldur en ekki barið.
Með bók af stað, sem stundum fyr,
Var strax út ganginn farið.
Þá spurði Pétur: "Hver er hér?"
"Eg heiti John D. Rockefeller,
Svifinn hingað um svala geima."
Þá svaraði Pétur: "Nú er heima."
Lauk upp og mælti: "Látum oss sjá,
Hvort listanum nafn þitt stendur á."
Og postulinn leitaði lengi og þagði,
Unz lét hann bókina aftur og sagði:
"Þitt nafn er hvergi hér í minni bók,
Til Helvítis þú verður því að fara.
Æ, þú varst flón að fara þennan krók,
Það fjandans ómak hefðirðu' átt að spara.
Þú vondi maður, vík frá mér! !
Og vertu' ekki' að eyða tíma í það að svara,
Því langt til Helvítis héðan er."
Þá hvíslaði John D. Rockefeller:





"Þið megið eiga átta' eða níu
Ámur fullar með steinolíu
Fyrir að leyfa mér aðeins inn."
Þá undraðist Pétur:—"Nonni minn!"
—Tók í nefið sem herramenn hér,
Hnerraði, bað guð að hjálpa sér,
Og rétti svo baukinn að Rockefeller—
"Veiztu' ekki' að hér í himnasal
Höfð eru kerti til að lýsa
Og góðum sálum veg að vísa;
Svo hefir verið og verða skal,
Oss fanst það bæði að fornu og nýju
Of fínt að brúka steinolíu.
En þú getur fengið að fara inn
Hjá fjandanum, kannske, Nonni minn,
Því þeir þurfa' á olíu heldur að halda,
Svo haldi áfram bálið þar
Og brunnið geti um aldir alda
Í eldi þeirra sálirnar.
Olíuverðið er haft svo hátt,
Að hvorki getur keypt né átt
Olíu fyrir eldinn sinn
Andskotinn;
Og þér að kenna alt það er,
Svo óvíst hann taki móti þér.

Að öllum líkum er nú Rauður
Af olíuleysi nærri dauður;
Ef olía hvergi ódýr fæst,
"Þá upp mun Helvíti verða læst."
"Þá ætla eg að bíða úti hér"
—Anzaði John D. Rockefeller—
Og halda olíu' í háu verði
Unz hver einn neisti þrotinn er,
Að fjandanum á þann hátt eg herði,
Að hann má til að lúta mér.
Og nafnið hans mér fullvel fer.
Eg kveiki upp eld þar neðra að nýju,
Því nóg hef eg af steinolíu."

---

# Sköpunin

Í hnykil Azra vatt sitt vísdómsband,
Svo varð hún til sú jörðin sem menn byggja.
Rétt eins og þegar Argyle-búar land
Til eignar taka, mjög að jarðveg hyggja,
Svo skoðaði' Azra jarðveg hér á jörð,
Ef jafnvel hvítur leir og dökka moldin
Að gagni mætti verða viltri hjörð,
Hann vildi síður að hún legði' af holdin.

Og dökka moldin mjög var góð, hann fann,
En miður hvíti leirinn var til þarfa.
En kannske 'ann gæti gert úr honum mann
Að gamni sínu. Azra tók til starfa.
Og hnoðaði' ákaft leir í lófa sér.
Að lokum því hann feginn varð og glaður.
— Hann fékst við leirburð löngu á undan mér.
Og leirburðurinn fyrsti var sá maður.

Í leirkarls nasir lét hann blásið inn
Þeim lífsins anda' er hreyfing mátti valda;
Og strípaður maður stóð í fyrsta sinn
Á storð og vissi' ei hvert hann átti' að halda;

Og Azra fremur læramjór hann leizt
Og ljótur, svo með klæðum varð að hylja.
Að ekki mundi mönnum fjölga geyst,
Ef maðurinn væri einn — það gaf að skilja.

Sú sköpn Azra leizt svo lítilsverð,
Að langaði ekki hann að gera fleiri,
En leggja aftur stund á englagerð,
Það íþrótt honum virtist langt um meiri,
Og engil hét að skapa' í mannsins mynd,
En miklu fegri', án þess að vera' í klæðum,
Og hæfan til að laugast himins lind
Og ljóssins straum á efstu sólna-hæðum.

Nú skyldi lýsa' í sköpun næmum smekk
Og skapa engil reglulega góðan!
Að harðri vinnu hvíldarlaust hann gekk
Og hugsaði' meir um listina en gróðann.
Og hvíta leirnum leit hann ekki við,
Því langt um betra efni þurfti' að velja,
Sem hreinna og mýkra var að eiga við
Og verulega geðugt mátti telja.

Hann sameinaði sykur, hunang, vín
Og svana- og æðar-dún og mjólk og rjóma,
Og morgunblæ og ljós, sem skærast skín

Og skógarilm og fegurð þúsund blóma.
Hann sykraði' utan engil-kroppinn þá,
Sem allir mundu hafa nefnt "hinn smurða",
Tvo sykurmola setti 'ann framan á,
Svo sæta' og stóra' að það var mesta furða.

Af ýmsu gera' of mikið má — til sanns
Þá mun það hafa færst, að því eg vona —
Því storknaði' engill þessi' í höndum hans
Af heldur miklum sykri og varð kona.
Svo varð hún til. Og víst er það og satt,
Að var sú frummynd einkar góð og hagleg.
Og höfund sinn' ún hefir eflaust glatt,
Því hún var bæði skemtileg og lagleg.

En hún var fyrir himnaríki' of þung
Og hafði enga vængi til að fljúga.
Hann vorkendi 'enni víst, því hún var ung,
Í veröldinni niðri' á jörð að búa,
En alt um seinan um það var að fást,
Og Azra henni' að rata' í myrkri kendi
Og léði henni lukt, sem heitir ást,
Og leirkarlinum niður hana sendi.

Og leirkarlinn sér lagði strax til munns
Þann ljúfa sykurtopp, sem komið hafði,

Við árstraum sætleiks ótæmandi brunns
Hann alveg frá sér numinn lengi tafði.
Hann ætlaði' hana' að eta' en fanst það rangt,
Og af því bara faðmaði 'ana og kysti.
Menn vita, þó að síðan sé nú langt,
Að sá var hér á jörðu kossinn fyrsti.

Og Azra sá að leirkarl liðs síns einn
Því lotinn var að hálfur sér ei undi,
En storknuðum engli studdur, alveg beinn,
Og sterkur eins og fíllinn verða mundi.
Að maður varð að manni sást nú bert,
Og mun hans konu líkað hafa framinn.
Og þá leit Azra' á það sem hafði' 'ann gert
Og þótti harla gott, til dýrðar. Amen!

---

# Ástaræfintýri

Hann horfði glampandi augum inn
í augnanna hennar geima
Og kendi þar inni svipinn sinn,
þar sá hann sig vera heima;
Svo lagði hún aftur augun blá
og ætlaði' að fara' að sofa;
Hann lokaðist í þeim inni þá,
Sem augun þau væru stofa.

Ei varð honum rótt né vært þá nótt
í vantsfalli heitra strauma,
Sem hún í augu sín helti ótt
Af harmsöguþáttum drauma,
en sárust neyð þá nóttt hann leið —
Leið neyðina hinsta sinni,
því rétt fyrir dag hann dauða beið —
Hann druknaði þarna inni.

Og þegar hann hafði saknað sín,
í sólroð hann reis á fætur

Og leitaði sín þar svaf við lín
Hans sól út við heimsskaut nætur.
Um morguninn, glaðan í sjón að sjá
Og sólskini gullinn, rauðan,
Hún vaknaði opnaði augun blá;
Þar inni hann fann sig — dauðan.



---

## Sál hússins

Sál hússins er eldur á arni
og eldur á lampakveik.
Ef farið er rangt með þann fjársjóð
þá fyllist húsið af reyk,
Og gluggarnir sortna af sóti
og syrtir að um rúm;
Þó úti álfröðull skíni
er inni nótt og húm.

Ef út frá arni og lampa
fer afvega hússins sál
Og verður ei heft né hamin,
þá hleypur alt í bál;
Að sál það alt hefir orðið,
sem æðir gönuskeið;
Í blindni hún brennir til ösku
sinn bústað og deyr um leið.

Sál hússins er eldur á arni
og eldur á lampakveik.

**Hún hnígur með sínu húsi**
**og hverfur loks í reyk.**
**Hvort er hennar ódauðleiki**
**þá aðeins fólginn í því,**
**Að alt af logar eldur,**
**deyr út og kviknar á ný?**

---

# Eldflugan.

Af sjálfsdáðum, fluga, þú lýsir þér leið
Um loftið með blikandi eldi,
Hún verður þér langt út í víðbláinn greið
Og víðsýn á aldimmu kveldi.
Eg sé þar í lofti þú líður, sem skín
Þitt ljós undir vængjunum þínum,
Það hug mínum leiðina lýsir til þín
Með leiftrandi geislunum sínum.

Í húminu flýgurðu hugrökk um loft
Hvað helzt sem þín bíður á vegi,
Og ljósið þitt byrgirðu, eldfluga, oft,
Svo önnur ljós birtast þér megi.
Ef veigalaus birta þér veitist af þeim,
Þú veizt hvar þér bezt er að lenda—
Úr sortanum flýr þú til sjálfrar þín heim
Og sjá—þar er myrkur á enda.

Þó regn fái hæglega bugað hvert bál,
Án breytingar áfram þú þýtur,
Ei reynist þér ljúfasta ljósið þitt tál
Svo lengi þú sjálfrar þín nýtur.
—Hve sæl ertu' að eiga svo vandaðan vin,
Sem varir, á meðan þú lifir,
Og lætur til blessunar lýsa sitt skin
Þér lífsveginn gjörvallan yfir.

Og sjálf áttu ljósið, sem lýsir þér bezt,
Þó ljómi við uppsali máni.
Hve gott er, þá húmið á himininn sezt,
Að hafa' enga birtu að láni.
Þau hylja sig ljósin og hverfa' út í geim,
Það húmar í gjörvöllum álfum,
En sárfáum leiðina lýsir í heim
Það ljós, sem að býr í þeim sjálfum.

---

# Gorkúlan.

Plöntu ættar, hvíta, hola kúla,
Heilsuleg ert þú, en ekki fríð.
Þér er heilnæmt haugaloftið fúla,
Hráslaginn og myglan alla tíð.
Þeirri björg að þakka lífið áttu,
Þroska fullum ná við kjör þín máttu.

Myrkrið þér—hið gamla, glætu snauða—
Gefur lífs og sálar megin þrótt,
Svo þú ekki deyir bráðum dauða,
Dagur þarf að vera eins og nótt,
Hreint og ferskt og fagurt alt að næring
Forðast þú, svo byrji' ekki í þér tæring.

Vera má, að lífið ljúfa stundum
Látir þú á voveiflegan hátt,
Þegar ilman lofts frá skógarlundum
Læðist til þín heim í niðurátt,
Eða þegar ljósið sólarloga
Lætur til þín skotið ör af boga.





# Gröftur.

Mér leiðist hvað þú hefir lítið hold
Á limunum þínum, góði,
En þú hefir all lengi morrað í mold
Í myrkri og grafarhljóði.

Að safna holdum á svona stað,
Er sagt, að enginn sé fljótur.
Mér sýnistu magur, en þrátt fyrir það
Ert þú ekki beinlínis ljótur.

Það virðiet mér afbrigði ekki neitt,
Þó andirðu nálykt frá þér.
Og þó þú sért lík, viltu leyfa mér eitt?
Að líta upp í munninn á þér.

Já, túngan er kyr. Hver tönn er sem ný,
Ei tanngarðinn hefirðu' auðan. — —
Hér hefirðu kýli, en ígerðin í
Því endað hefir við dauðann.

—Af lífinu menn eru lúnari en þú
Af legunni—svo er því varið.
Að fjölmargir séu fúnari en þú,
Ei fyrir það get eg svarið.

---

# Hersöngvar.

---

## I. FLUG.

Svo fleygir og slingir sem fuglaþing
Við fljúgum með vængi þanda,
Við sveimum í hring og sveiflumst í kring
Um svífandi drekafjanda.

Og hann með aðskotnum eldibrand
Er eltur að skýja baki
Og himininn, eins og haf og land,
Er hristur sprengingabraki.

Svo kviknar í drekans olíuæð
Og eldur rís og hríslast,
Í eldi brestur og eldtunga skæð
Í eldtungur þúsund kvíslast.

Og þar, er sindraði sundrað bál,
Er sviplega auðn og friður,
Og hann sem var flugdrekans fleyga sál
Er farinn í ögnum niður.

## II. ORUSTA.

Nú bylgjast sem fjörð við finnum svörð
Við fallbyssuhvelli og smelli,
Og hávaðinn er eins og himinn, jörð
Og helvíti saman skelli.

Það þrumar snjalt og þúsundfalt,
Og það er sem rífi og slíti
Hver sprenging að jarðar iðrum, alt
Og alt sé í springandi víti.

Hið efra er loftið af eimyrju fult
Og úfnum skýja flókum,
Hið neðra brúnt og gylt og gult
Af glóð og reykjarstrókum.

Og líkamir naktir með logbrent hár
Í loft upp úr jörðu fleygjast,
Með flagsandi iðrin og flakandi sár
Þeir falla, iða og teygjast.

Við sjáum í flygsum fljúgandi svörð
Sem fuglahóp yfir víkum.
Það tyrfist nú alt og iðandi jörð
Er ofan á kvikum líkum.

## III. VALUR.

Í gaddavírsflækjunni geispar haus
Og glápir, það flýr hann blundur,
Og þessi haus er líkamalaus,
Því líkaminn tættist sundur.

Og hvar, sem er stigið, er stigið á mann
Á stangli, á dreif og í haugum;
Og storknandi blóðvöllur starir—hann
Er stirndur brostnum augum.

Úr nádíki réttist helblá hönd
Og hnefinn kreppist. Hún bendir
Með einum fingri á friðarlönd,
Sem finnast við lífsins endir.

Við drögum anda með iðralykt
Og öndum út djöfulhlátri.
Til himins um loftið þrumandi, þykt,
Rís þefur af mannaslátri.

## IV. ÞORSTI.

I hálfa viku hefir oss þyrst
Í heitri jarðarsprungu,
Og alla lýst á mat hefir mist
Hver munnur með þurra tungu.

Að forarvilpuskurði skamt
Við skríðum á jarðar hrönnum,
Og saman við vatnið seyrt og ramt
Við sötrum blóð úr mönnum.

# Þorri

Þorrafjúk um fimbulvetur
Fellur niður á hjarn og svell,
Gellur stormur hár og hvell,
Heiftargrimd að völdum setur;
Frostsins stál í stormsins höndum
Stingst í gegn um alla vöðva;
Dreyra' í æðum deyða' og stöðva
Dísir niðri á heljarströndum.

Skuggamyndir skýjakólgu
Skunda um loftsins auðu sund,
Sundrast alt á græði' og grund,
Grenja vötn af iðrabólgu,
Hrönnum gegn um sprungur spýta,
Sprengja klaka' af þrútnum brjóstum,
Töfra-afls af römmum róstum
Raskast hauðrið mjallahvíta.

Tré við lífsins takmörk gnötra,
Tröllsleg falla niður á völl,
Köll til himins, hróp og sköll

Hljóðköst bylsins leggja í fjötra;
Mannkyn alt á stjarfa stígi
Starir brostnum sálaraugum
Fram að gröf, með feigð í taugum
Falið nætur drunga skýi.

Betri tíð að bygðum hyllist,
Breyting verði fagurleit,
Sveitir vermi sólin heit,
Sólareldi hjarnið gyllist.
Friður niður á valinn villist,
Verði á himni bylting stjórnar;
þennan brag til brennifórnar
Býð eg fram þegar veðrið stillist.

---

# Haust

Hvergi í lundi' er lauf á anga,
Lilja á grundu engin vex;
Nóttu undir líður langa,
Lífsins stundaklukka er sex.

## Haustsöngur

Sumar að endingu aftansöng sló,
ómbylgjan titrandi líður.
Tíminn er flughraður, fegurðin bíður
Friðhelg um eilífð, en breytist þó.
Hávaða hafbarka raustar
Hrostabrim vekur við sand,
Veturinn nálgast og nóttin — það haustar.
Nú ertu fölnað, þú sólarland.

Rignir úr lundi, við laufvinda súg,
Lofteldi gullinna blaða,
Gusturinn eykur hans eldlega hraða
Ofan að laufanna slegna múg.
Hvílir sig heimur í eyði,
Helkulda stirður sem nár,
Heiðbjart er yfir 'ans hrímstirnda leiði,
Hverfist í glersúlur mánatár.

Jörð, þú ert eyðingar-yndisleik full,
Ísmyndir hans eru skýrar,
Hélunnar glitrandi vefir og vírar
Vefjast um akranna stöngulgull;
Ægisljóss árgeislum merluð
Ei inn í skugga þú flýrð,
Haustskrauti sveipuð og silfruð og perluð
Sindrar þú tunglbjört í heljardýrð.

---

# Veturinn

Hylja svellin, silfurhvít sem ellin,
Sundin, fellin, tjarnir, ár;
Er á högum, hvassabyls af slögum,
Hellulögum bundin snjár;
Lengjast skuggar, skjálfa frostnir gluggar,
Skógur ruggar hélugrár;
Allar rauðar rósir eru dauðar,
Rymur, gnauðar stormur hár.

Ægisskjöldinn bera vetrarvöldin
Vökukvöldin löng og hörð,
Er sem frjósi alt og verði' að ljósi,
Ísinn hrósi sigri' á jörð;
Kaldir glampar lýsa eins og lampar,
Loftið hampar þeim um fjörð;
Norðurljósa logabrunnar gjósa,
Lofts við ósa halda vörð.

Oft er galdur þinn að villu valdur,
Vetur kaldur, hreina sýn, —
Eru blossar þínir köldu kossar,
Kristalsfossar tárin þín.

Perlulinda-bönd þú ert að binda,
Breiða á tinda skýjalín.
Upp af barmi köldum, köldum hvarmi
Kristalsbjarmi heiður skín.

Hvíti skóli heljar er í skjóli
Hjá þér, sjóli geims og lands,
Beggja skauta heims og himinbrauta
Húms og þrautagjafi manns!
Uns þú hnígur, eins og tungl þú flýgur
Eða stígur skuggadans,
Blæjum vefur lífs og liðna, grefur
Loks og gefur hvítan krans.

---

# Leysing

Hv[illegible] niða öll og vaxa vatnaföll
Og verða tröll að kröftum!
Þau sváfu rótt og lágu langa nótt,
En losna skjótt úr höftum;
Og frelsi hýrð þau flæða áfram—skírð
Í funadýrð og ljósi,
En ísspöng löng með svellabjöllu söng
Út syndir göng að ósi.

Er springa vik í spöng, eru leiftur kvik
Og sporðablik með skvampi,
Og frelsislag þar slæst við sporðaslag,
— Í slíkum brag er glampi;
Og ísaglys þar sökkva' og sjást á mis,
Sem sindri blys á öldum;
Í hverri átt er loftið ljómagljátt
Sem leiftri hátt af skjöldum.

Með vald og skraut sitt vetur alt á braut
Í vatnaskaut sig hringir.
Fer vortíð góð í hönd, með himinljóð,
Er hitar blóð og yngir,
Því kvöldsól—hún, sem kastar friðbaugsrún
Á klakabrún og strauma, —
Lét ársólbráð á geislaspil mér spáð
Og spann mér þráð í drauma.

---

# Góða nótt

Dúnalogn er allra átta,
Allir vindar geims sig nátta,
Nú er álfa heims að hátta,
Hinstu geislar slokna skjótt,
Húmsins svarta silkiskýla
Sveipar þekjur vorra býla,
Upp er jörðin eins og hvíla
öllu búin, — Góða nótt!
Upp til hvíldar öllu búin
Er nú jörðin. Góða nótt!

Langþrekuðum lýð er kærast
Lágt að hvíla, endurnærast,
Blunda lengi vel, sem værast
vekja taugum sínum þrótt,
Yfir lofts og lagar strauma
Líta Eden sinna drauma,
Sólarbrautir svífa nauma
Sælustundu. — Góða nótt!
Svífa stutta stundu brautir
Stjarna og sólar. Góða nótt!

Tak þú, svefn, í ástararma
Alla menn, sem þjást og harma,
Legg þinn væng á lukta hvarma,
Láttu öllum verða rótt,
Leyf þeim, draumur, lengi að njóta
Lífsins, sem í vöku brjóta
Skipin sín í flök og fljóta
Fram hjá öllu. — Góða nótt!
Þeim, sem fram hjá fegurð lífsins
Fara í vöku. Góða nótt!

Streym þú, himins stilling, niður,
Stattu við þú, næturfriður.
Hugur fellur fram og biður,
Funheitt andvarp lyftist hljótt.
Hætti allra sár að svíða,
Sólar verði gott að bíða,
Þurfi enginn kulda' að kvíða,
Komi sólskin. — Góða nótt!
Enginn þurfi að óttast, komi
Engill dagsins. Góða nótt!

# Í gullbrúðkaupi

Þorvaldar Þorvaldssonar og Þuríðar
Þorbergsdóttur

---

Þið brúðhjón, silfri sæmd af háum aldri
Með sveiga gulls, sem tíminn lét í arf —
Þið heyrið nú, af hörpu strengja galdri,
Öll hjörtun þakka sjötíu ára starf.
Á meðal okkar eilíft líf sér hreyfir,
Og ykkar líf er brot af geisla þeim,
En niðja ykkar andi gulli dreifir
Og undrabliki ljóss, um Vesturheim.

Þið gerðust heild, en heildin sú er eining,
Sem hér í lífi skiftist ekki í tvent,
Og ekki' er dauðinn sjálfur sundurgreining,
Hvað svo sem okkur hefir verið kent.
Þess hinstu rök að heilu megi deila,
Þau hljóta að falla skóla vorum í,
Því aldrei getur verið hálft það heila,
Og hjónin verða lengstum eitt af því.

**Við biðjum þess, að gæfan ykkur geymi
Og gefi að hjá oss lengi dveljið þið,
Því yndisstundir vorar hér í heimi
Er himnum ekki dælt að jafnast við.
Og hverju sem um sáluhjálp þið trúið,
Þið saman flytjið Drotni þakkargjörð,
Að friðsæl, glöð og frjáls þið hafið búið
Í fimmtíu' ára ríki hans á jörð.**

---

# Guðný Kristín Nordal

Fædd 30. apríl 1914 — Dáin 2. maí 1919

---

Undir nafni móðurinnar.

Eg sá þig fölna líkt og lítið blóm,
Um leið eg heyrði þagna blítt þinn róm,
Mér fanst svo dauðahljótt og autt hér inni;
Hve urðu döpur þá mín húsakynni!

Ei alt er eins og finst og fyrir ber —
Mér fanst þú vera horfin burt frá mér,
Þú stjarnan, litla stúlkan hjartagóða,
þú stóra barnssál, andi söngs og ljóða.

Það bjarmar eitthvert blik í huga mér,
Og birtir svo mér dylst ei hvað það er.
Ó, guð, eg hefi liðið, syrgt og saknað,
Af sorgardraumi mínum aftur vaknað.

Þig dauðinn tekur aldrei, aldrei frá mér,
Mitt elsku barn, þú verður jafnan hjá mér,
Svo lengi sem eg lifi ertu mín,
Svo lengi barn, sem eg er mamma þín.

Eg finn þig enn í faðmi mínum vaka,
Eg finn þig mjúkum engilvængjum blaka,
Í sálu mína friði anda inn;
Sem áður þig eg heyri, sé og finn.

Hjá mömmu þinni, barn mitt, enn þá ertu
Og unir þér svo róleg. Blessuð vertu!
Í fyrsta skifti nú eg ugglaus er
Að aldrei þurfi eg að sjá af þér.

Nú getur enginn, enginn tekið frá mér
Mitt elsku barn — þú verður jafnan hjá mér,
Þú verður alt af ung í faðmi mér,
Þig aldrei frá mér tímans straumur ber.

---

# Frú Engilráð Dalman

(Skrifað í vísnabók)

Er degi tekur hægt og rótt að halla
Og hindrar sólþráð skugga fyrirvaf,
Við heyrum þig til kvöldsöngs á oss kalla,
Og komum saman fyr en vitum af
Og sjáum, heyrum, finnum að oss falla
Þinn fagra, bjarta hásöngs geislastaf.

Sem líði hægur sumarblær frá blómi,
Svo berast ljóð þín hunangssæt og mild.
Þú prýðir alt með þínum þýða rómi,
Því þú ert söngsins listagyðju skyld;
Og þó þú syngir ein, er eins og hljómi
Frá andans strengjum, hundrað radda snild.